# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

7 ár. WINNIPEG, APRÍL 1892. Nr. 2.

## *JÓHANNES OG PJETUR.*

(Sbr. Pg. 4. o. v.).

Eptir síra Valdimar Briem.

—o—

Nú hlusti hver, sem hlýtt á söng minn getur,
því harpan stillt um vini drottins er;
og jeg vil syngja' um Jóhannes og Pjetur,
er Jesús kjöri helzt til fylgdar sjer.

Þeir voru báðir drottins vinir dyggir,
og drottins elska sameinaði þá;
þeir reyndust og hvor öðrum vinir tryggir,
þótt ólíkt næsta margt þeim væri hjá.

Því Pjetur var sem Jórdans straumur stríður,
er stefndi beint af afli' um fagra sveit;
en Jóhannes sem Kedrons bekkur blíður,
er barst ei hart, en frjóvgaði sinn reit.

Og Pjetur var sem Hermons fjallið háa,
er háreist gnæfir yfir lægri fjöll;
en Jóhannes sem Síons leitið lága,
þótt lágt það væri bar það dýrðarhöll.

Og Pjetur var sem hám í hamrasalnum
hinn helgi sedrus Líbanons í hlíð;
en Jóhannes sem jurtin ljúf í dalnum,
á jafnlendinu Sarons rósin fríð.

En lind og elfur, höll og fjallið fríða,
hin fagra rós og eikin tignarhá,
þau öll til samans akur drottins prýða,
hvert upp það bætir, hitt er brestur á.

Og hvort sem fegra vor er eða vetur,
þau vitna bæði' um drottins lof og hrós.
Svo jafnan var um Jóhannes og Pjetur,
í Jesú kirkju báðir voru ljós.

Og hvorum þeirra hafi tekizt betur,
ei hygg jeg gott að segja, — því jeg tel
þá báða jafna Jóhannes og Pjetur,
í Jesú garði báðir unnu vel.

Og hvorn sem drottinn meira þeirra metur,
þeir möttust eigi líkt og heimskir menn.
Þeir Jesú vinir Jóhannes og Pjetur
í Jesú nafni hjeldu saman enn

Á meðan lífsins ljóss þeir notið gátu,
í ljósi Jesú saman gengu þeir.
Í myrkvastofu saman nú þeir sátu,
á sama stofni fagrir kvistir tveir.

Þótt væri hjá þeim dimmt um ljósa daga,
þeir drottins birtu glaðir undu við.
og þeir ei fundu fjötra þunga baga,
sem frelsis höfðu evangelíið.

Þeir fram á nótt í fangaklefa vöktu,
þó fannst þeim tíminn ekki langur þá;

í huganum þeir fornan feril röktu,
og fyrri tíðir glaðir minntust á.

Þeir minntust þess, hve margopt fyr á tíðum
hjá meistaranum góða voru þeir;
því einkum þrír úr flokki sveina fríðum
þá fylgdu honum, stundum að eins tveir.

Þeir minntust þess, er út á djúp þeir drógu
og drottinn þeim hinn mikla afla gaf
úr sínu stóra nægtabúri nógu,
er neitt ei eyðist þótt sje tekið af.

Þeir minntust þess, að þeir með Jesú fóru
inn þangað, sem hin dána stúlka lá,
og að því tákni vottar sjálfir vóru,
er vakti Jesús hana dauða frá.

Þeir minntust þess, er fyr á fjalli háu
skein fegri sólu Jesú ásýnd skær,
og um hann ljóma drottins dýrð þeir sáu
og drottni fýstust æ að búa nær.

Þeir minntust þess, hve furðu fast þeir sváfu
er frelsarinn á bæn í garði lá,
og engan gaum að orðum hans þeir gáfu,
því ógnarhöfgi fallinn var á þá.

Þeir minntust þess, er sama kveld þeir sátu
í sal hins æðsta prests, við þjóna hlið;
en frelsara sinn frelsað eigi gátu,
og feimnir hann ei þorðu' að kannast við.

Þeir minntust þess, er þeir til grafar gengu
með grátna brá um páskamorgunstund,
og auðan Jesú legstað líta fengu,
því lausnarinn var risinn upp af blund.

þeir minntust þess, og minntust þess með gleði,
hve margt hann sífellt gjörði fyrir þá;
því höfðu þeir með hjartans ljúfu geði
hans helga nafnið boðað mönnum hjá.

Sem hann, er ljet sig höndum ljúfur taka
og hógvær kross og fjötra saklaus bar,
eins liðu þeir, þótt liðu þeir án saka,
með ljúfu geði bönd og fjötra þar.

þeir sig ei ljetu bönd nje fjötra buga,
en báðu drottin innilega heitt,
og settu traust sitt á hinn almáttuga,
er ávallt hjálpar, menn þótt geti' ei neitt.

þeir frelsað gátu' ei frelsarann hinn blíða
er fjötur þungur hann var borinn á;
en hann, sem fyr varð frelsun allra lýða,
úr fjötrum hörðum nú gat losað þá.

En það, sem aptur gátu þeir, þeir gjörðu:
þeir gengu fyrir það hið mikla ráð;
mót Gyðinganna grimmdaræði hörðu
þeir glaðir báru vitni' um Jesú náð.

Og það, sem meira' gátu þeir, þeir gjörðu,
þeir gengu djarfir upp í musterið,
og Jesú nafn og Jesú kenning vörðu,
sem Jerúsalem kannaðist ei við.

Og enn þá meira gátu þeir og gjörðu:
þeir gengu vítt um margar álfur lands,
og báru vitni víðri fyrir jörðu
um vegsemd, tign og miskunn frelsarans.

En vegir skildust: líf varð Pjetur láta,
hann líka fjekk með dauða' að vitna' um hann;

með lífi sínu Jóhannes fjekk játa
um Jesú nafn, um guð og kærleikann.

Og meðan Pjetur, hlíðar-eikin háa,
í húmi jarðar dökku hvíldist lágt,
var Jóhannes, sú dalsins liljan lága,
í ljóma drottins tignar numinn hátt.

En síðan aptur sameinuðust vegir
í sölum guðs við stól hans hátignar,
og báðir drottins vottar vegsamlegir
þar vegsama guðs nafn til eilífðar.

## *KRISTNAR KONUR.*

—o—

Páskahátíðin, sem nýlega er yfir oss liðin, minnir oss á kristnar konur. Þær stóðu undir krossinum og grjetu. Þær hjálpuðu til að smyrja líkama lausnarans og leggja hann í gröfina. Á páskadagsmorguninn voru þær á ferð á undan öllum öðrum. Þær fengu fyrstar hin gleðilegu tíðindi um upprisuna, — líklega af því þær hafa grátið mest, syrgt mest, elskað mest.

Heiðnum rómverskum rithöfundi frá fyrstu tímum kristninnar varð það að orði, er hann kynntist lifnaðarháttum og fjelagslífi hinna kristnu: „Sjá, hvílíkar konur eru meðal kristinna manna!“ Honum þótti þær bera ægishjálm af hinum heiðnu konum. Vjer getum ímyndað oss, hvað það hefur verið í fari kristinna kvenna, sem hefur svo mjög vakið aðdáun hins heiðna manns. Það hefur ekki verið skartið, sem þær hafa borið utan á sig. Því það var lögð sjerstök áherzla á það í fyrstu kristni, að konurnar bærust ekkert á, heldur temdu sjer einfaldan, prjállausan klæðaburð. En það hefur verið allt hið kvennlega í fari þeirra, sem birzt hefur í dýrðlegri mynd eptir að hjörtu þeirra urðu endurfædd af anda kristindómsins. Hvergi kom það betur í ljós, að kristindómurinn er hið sanna lífslopt mannsins en í þeim ummyndandi áhrifum, sem náðarboðskapurinn hafði á háttalag og framferði kvenna.

og hluttöku þeirra í lífinu á heimilunum. Menn þekktu ekki konuna í hennar sönnu mynd áður en hún varð kristin. Heiðnir rithöfundar og skáld, er skarpasta sjón höfðu fyrir hinu göfugasta í manneðlinu, fylltust lotningarfullri undrun, er þeir kynntust kristnum konum og yfirburðum þeirra í sönnu siðgæði og kvennlegum dyggðum. Kristnar konur áttu afarmikinn þátt í því, að kristindómurinn sigraði í baráttu sinni við heiðnina, ekki einungis með píslarvætti sínu, er þær liðu með engu minna hugrekki og trúardjörfung en karlmennirnir, heldur með daglegri framgengni sinni, — með því að lifa fyrir aðra og vera einlægt að leggja líf sitt í sölurnar fyrir aðra.

Allt hið blíðasta, elskulegasta, viðkvæmasta í manneðlinu hefur fengið sína persónugjörfing í konunni. Hið saklausa og hreina, að svo miklu leyti sem það er til meðal mannanna, er hennar einkenni. Eptir því sem henni tekst betur að varðveita þetta í fari sínu, er hún fullkomnari. En sakleysið og hreinleikinn verður að herfangi syndarinnar, svo framarlega það sje slitið úr sambandinu við guð. Hinar heiðnu konur í fornöld þekktu auðvitað ekki það afl, sem frelsar frá synd og spilling, og þess vegna varð hið bezta og kvennlegasta í fari þeirra umhverft. Og hið sama vill svo opt verða tilfellið þann dag í dag með þær konur, sem ósnortnar eru af áhrifum guðs heilaga anda. Og þegar eðli konunnar verður umhverft af spilling og synd, verður það óttalegt. Góð kona virðist opt standa eins ofarlega í stiga mannlegrar fullkomnunar og unnt er. En slæmar konur standa eflaust neðar en nokkrum öðrum er unnt að komast.

Hvergi nær trúarlífið hærra nje göfugra stigi en í hjarta konunnar. Enginn lifir í innilegra trúarinnar samfjelagi við frelsara sinn, en kristnar konur gjöra. Enginn biður jafn-heitt og jafn-átakanlega og trúaðar konur. Það hefur verið viðurkennt frá fyrstu tímum kristninnar. Og það er viðurkennt þann dag í dag. Opt hefur það reynzt svo í kristnum söfnuðum, að konurnar hafa verið beztu og einlægustu safnaðarlimirnir. Á tímum fráfalls og neitunar, þegar stormveður vantrúarinnar hefur blásið yfir mannfjelögin,

svo að allur gróðurinn á akri trúarinnar hefur virzt standa eptir fölnaður og visinn, hafa þó ætíð verið eptir blómreitir í hjörtum kristinna kvenna, sem stormurinn hefur ekki náð til og ekkert vald fengið yfir. Og þessir blómreitir hafa orðið að vermibeðum, er breitt hafa andlegan, trúarlegan gróður út frá sjer til blessunar fyrir mannfjelögin og viðreisnar fyrir kirkjuna. Þegar kaldlyndir, efasjúkir sjálfbyrgingar snúa baki við kirkju og kristindómi, þyrpast trúfastar, guðhræddar konur hvervetna um hinn kristna heim inn í kirkjurnar til að biðja þar fyrir sjálfum sjer og þeim, sem þær elska. Og hve miklu hafa ekki bænir þeirra áorkað! Hve margir menn munu ekki hafa frelsaðir orðið fyrir bænastað trúaðrar móður, eiginkonu eða systur.

Í hinni kirkjulegu starfsemi vorri hjer hafa konurnar optast reynzt einlægustu og beztu hvatamenn. Enginn hefur boðið safnaðarhugmyndina betur velkomna en konurnar. Enginn hefur orðið því fegnari, þegar farið var að prjedika guðs orð og fræða hina ungu í kristindóminum en þær. Enginn hefur þráð meira en þær, að kirkjur yrðu reistar, svo guðsþjónustur safnaðarins gætu farið fram á veglegan og sómasamlegan hátt. Þegar það svo hefur náð fram að ganga, hafa þær ekki látið sig vanta við guðsþjónusturnar, heldur keppzt við að koma sjálfar, opt og tíðum með allan barnahópinn sinn. Marga móður hef jeg heyrt segja, að aldrei væri hún eins lukkuleg og þegar hún væri komin með börnin sín í kirkjuna einn sunnudagsmorgun.

Svo hafa konur í flestum söfnuðum vorum gengið í fjelög sín á milli. Mark og mið þessara fjelaga er að styðja og styrkja söfnuðina á ýmsan hátt. Hin ýmsu kvennfjelög safnaða vorra hafa þegar haft saman stórfje, sem annaðhvort hefur verið varið í safnaðarþarfir eða til þess að fremja eitthvert kærleiksverk. Þær eru að prýða kirkjurnar, svo hús drottins verði vegleg og söfnuðunum til ánægju og sóma. Þessi starfsemi kvenna í söfnuðunum hefur þegar orðið til mikillar blessunar og er þó í byrjun sinni hjá oss eins og allt annað. Í flestum eldri

söfnuðum hjer í landinu eru konurnar sístarfandi. Þær eiga að vera hjarta safnaðarins og eru það líka þar sem trúarlífið er nokkuð farið að vakna.

Það hefur verið sagt, að það málefni, sem konur tækju eindregið að sjer og veittu fylgi sitt, ætti góða framtíð fyrir höndum. Lang-flestar af vorum íslenzku konum aðhyllast málefni kristindómsins í hjarta sínu og unna því allra málefna mest. Hingað til hafa þær t. d. haft svo mikið ógeð á Únítara-safnaðar-kákinu, að þar hafa svo sem engar konur verið með. Þó konurnar ekki gjöri sjer hugsunarlega grein fyrir því, hvað vantrúin er ósönn og hættuleg, hafa þær það ósjálfrátt á tilfinningunni og forðast því vanalega að ganga á hennar vegum. Og einlægt meðan fjöldinn af vorum íslenzku konum gengur á vegum trúarinnar og kristindómsins, — meðan konan biður fyrir manni sínum, móðirin fyrir syninum og systirin fyrir sínum gjálífa bróður, — er mikil og fögur von fyrir höndum um endurvakning trúarlífsins á meðal vor. Gegnum allan reiðann á herskipum Englendinga gengur hulinn rauður þráður sem merki þess að þau tilheyri brezku stjórninni. Gegn um líf nálega hvers manns gengur hulinn rauður þráður af kærleik einhverrar konu. Sje þessi kærleikur helgaður af trúnni á hinn eilífa kærleika, er hann geisli af því ljósi, sem guð býr í. Og við hans skyn hefur margur maður snúið við úr villu og spilling og aptur lært að biðja *faðir vor* eins og þegar hann var barn.

Svo snýr þá „Sameiningin“ sjer til kristinna kvenna af vorri þjóð, fyrst og fremst þeirra, sem í þessu landi búa, en um leið til hverrar einustu trúaðrar ísl. konu, sem þetta les, hvar sem hún er, — til mæðranna, systranna, dætranna, — til hinnar ungu konu, sem gefið hefur unnusta sínum hjarta sitt í ást og trú og til þeirrar, sem með silfurhvítt hár og hvarma, laugaða af margra ára reynslutárum, þráir að komast heim á frelsisins land — og segir: Biðjið og grátið eins og hinar kristnu konur hafa beðið og grátið undir krossinum forðum, biðjið fyrir yðar týndu sonum, biðjið fyrir öllu, sem þjer elskið og vitið í hættu statt, biðjið fyrir málefni trúarinnar, biðjið fyrir útbreiðslu

guðsríkis, biðjið fyrir vorri elskuðu þjóð, að almáttugur drottinn varðveiti hana frá að hníga í arma vantrúarinnar, en hjálpi henni til að falla í faðm frelsarans, sem er blessaður um aldir. þá yrði rauði þráðurinn, sem þjer fljettuðuð inn í reiðann á voru litla þjóðlífskipi, svo sterkur og svo guðdómlega blessunarríkur. þá opinberaði yðar kærleikur sig á sama hátt og drottins. Hann yrði til frelsis.

Í heiminum er dimmt. Lífið er fullt af ljótleik og synd. Spillingin fer yfir löndin eins og óvígur her. Stunur og andvörp, blót og formælingar stíga í einu upp til himins. Örvæntingin er næsti nágranni svo margra. Gullið, sem svo margir grafa upp úr lífsnámunni, andleg og líkamleg kvöl. þegar jeg hugsa um allt þetta, verð jeg óttasleginn. En fyrir guðs náð sje jeg meira. Fyrir hverja óhreina hönd, sem gjörir illt, sje jeg aðrar hreinar, sem gjöra gott. Fyrir hvern, sem lifir í hinu ljóta, sje jeg aðra, sem lifa í fegurð. þegar spillingin liggur við dyr heimilisins eins og ræningi, sje jeg hvíta hönd, veika og skjálfandi, setja fyrir sterkan lás. þegar jeg heyri stunurnar frá beði hins veika manns, veit jeg að englar líknarinnar eru þar til að liðsinna og hugga í mynd kærleiksríkra kvenna. Fyrir hverja hása og grimma rödd, sem blótar og formælir, heyri jeg aðrar, blíðar og mildar, sem biðja og blessa. Í hvert sinn, sem jeg sje örvæntinguna í sínum dapra dauðans búningi, slá englar vonarinnar í dragsíðum hvítum kyrtlum hring um mig. Fyrir hvern vantrúaðan mann, margar trúaðar konur. það bendir mjer á guðlega náð, sem er yfir öllu, um allt og í öllu, og ætíð sterkust.

Guði sje lof! Vjer eigum margar kristnar konur meðal vors íslenzka fólks.

---

## *SÁLMUR.*

Eptir síra **Valdimar Briem.**

—o—

Velkominn vertu,
vinur, Jesú minn,

Eg veit, að ertu
allra frelsarinn.
Hjálpa þú mjer, herra,
harla mjög jeg líð;
þrautir lát þú þverra,
þrjóta böl og stríð.
Þú, sem alla þraut barst hjer,
þú munt varla synja mjer,
er jeg kalla eptir þjer,
allra líknin blíð.

Þú, Jesú, þekkir
það, sem amar mjer;
hvað, sem mjer hnekkir,
hulið er ei þjer.
Þó að varir þegi,
þú mig heyrir vel;
hulið er þjer eigi
innsta hjartans þel.
Herra, þú vilt heyra mig,
hátt er nú jeg kalla' á þig;
að mjer snú og innilig
andvörp mín þú tel.

Viðlits þíns veit jeg
verður jeg ei er;
þó þín eins leita' eg
það mun duga mjer
Eg þjer ekki sleppi,
er þig fundið hef,
fyr en hjálp jeg hreppi;
herra', ei lengur tef.
Mjer í nauðum miskunna,
meðal sauða glataðra,
mola' af brauði barnanna
barni þínu gef.

Mörg ljós þótt megi

menn af einu fá,
eyðist þó eigi
eldur bjartur sá.
Mun þá verða minni
mikla dýrðin þín,
ljóss ef lind úr þinni
ljós fær sála mín?
Gneistinn minnsti gleðinnar,
geislinn minnsti blessunar,
dropinn minnsti miskunnar
mjer er nóg ef skín.

---

## *GAMLA VIÐKVÆÐIÐ.*

—o—

Einlægt eru fleiri og fleiri raddir að láta til sín heyra í kirkjunni á Íslandi, er álíta, að ný kirkjuleg hreyfing þurfi að hefjast í landinu, og telja það lífsnauðsynlegt, að nýr áhugi vakni meðal presta og safnaða út um landið í kirkjulegum efnum. Hvert spor, sem þar er til framfara stigið í kirkjulegu tilliti, og hvert orð, sem talað er þar heima, til að vekja menn upp af þeim margra ára áhugaleysis-höfga, er á þjóðina hefur sigið, er oss hið mesta gleðiefni. Ef vjer gætum gjört þau orð áhrifameiri með því að bergmála þau í hvert skipti hjeðan að vestan, teldum vjer það ekki eptir oss. Kirkjublaðið er sjálfkjörið málgagn hinnar nýju lífshreyfingar, þar sem það er eina kirkjulega tímaritið. Enda hefur þar þegar verið sagt margt gott orð, sem miðað hefur í áttina. Ritstjóri „Kirkjublaðsins" hefur nú eptir nýárið snúið sjer gegn helzta vantrúarmálgagninu, sem enn hefur fengið að þrífast meðal þjóðar vorrar, „Fjallkonunni", til að koma öllum í skilning um, af hverjum toga öll afskipti þess blaðs af kristindóminum eru spunnin. Var það bæði þarft verk og nauðsynlegt, en um að gjöra, að eindregið sje tekið í strenginn; því annars nær slíkt naumast tilgangi sínum. Skopleg er vörn „Fjallk." að mörgu leyti. Hún þorir ekki fyrir neinn mun að standa við vantrú sína, heldur neitar því, að hún sje til; það

sje trúin í einhverju æðra „veldi“, sem fyrir henni vaki. Olíklegt er, að hún gjöri sjer í hugarlund, að nokkur muni trúa slíku.

Síra Hjörleifur Einarsson hefur hvað eptir annað tekið til máls í „Kirkjublaðinu“. Hið ýmsa sem að er í kirkjulegu tilliti vakir býsna sterkt fyrir honum og hann bendir hvað eptir annað á það með hógværum og stillilegum orðum. Skólamaður einhver ónafngreindur á Suðurnesjum benti á, hve bágt væri ástandið þar með sjávarsíðunni, að því, er almenna upplýsing og þekking í kristindóminum snerti, og áleit, að á því væri bráð þörf að ráða bót. Ritstjórinn beindi því máli til prestanna og spurði: Hverju svara þeir? Síra þórarinn Böðvarsson í Görðum á Álptanesi hefur orðið til svars. Hann svarar bæði því, sem síra Hjörleifur hefur sagt um fráhvarf fermdra unglinga frá trú sinni og kirkju og vitnisburði skólamannsins um Suðurnesja-upplýsinguna. Og svar hans er í því fólgið að sýna fram á, að aðfinningar þær um kirkjulegalega ástandið, sem fram komi hjá þessum tveim mönnum, sjeu byggðar á lausum og óáreiðilegum grundvelli. Hið kirkjulega ástand sje miklu betra en þeir álíti. Hann kveðst hafa verið prestur í þremur umdæmum, en aldrei hafa fyrr „heyrt getið um og því síður heyrt sjálfur, að æskumaður fyrir innan tvítugsaldur hafi *hallmælt* kristindóminum og látið opinberlega í ljósi, að hann efist um hina *háleitustu lærdóma* hans“.— Vjer erum mjög svo hræddir um, að próf. hafi ekki ávallt lagt eyrað vel við, eða þá, að hann kunni að hafa gleymt einhverju, sem hann hefur heyrt. Oss virðist því sem næst óhugsandi, að hann hafi aldrei heyrt getið um um t. d. einhvern pilt í latínuskólanum í Reykjavík, er slíkt hefur gjört.

Sumir menn þjást af andlegu heyrnarleysi; þeir vita enga lifandi ögn um það, sem sagt er og gjört kring um þá. þegar slíkir menn eru í prestlegri stöðu, vita þeir vanalega aldrei neitt af vantrú að segja; — þeir heyra aldrei til hennar, hún verður aldrei á vegum þeirra; þeir bregðast mjög ókunnuglega við að heyra um hana talað. Slíkt

heyrnarleysi er slæmt og hefur opt valdið kirkjunni hins mesta tjóns.

Ekki er ýmugustur sá, er prófasturinn hefur á öllu *nýju* síður eptirtektaverður. Orð eins og „ný starfsemi", „nýir vegir" o. s. frv. segist hann ekki skilja. Á fjelögum, sem myndast innan kirkjufjelagsins, sýnist hann hafa megnustu óbeit. Jafnvel það, að fyrirlestrar sjeu haldnir um kirkjuleg efni, finnst honum svo ískyggilegt, að hann lýsir hátíðlega yfir því, að hann og þeir prestarnir í Kjalarnesþinginu hafi komið sjer saman um „ekki að halda fyrirlestra, eins og nú er títt, nje stofna fjelög í kirkjufjelaginu". Eptir að hafa lesið önnur eins ummæli og þessi trúir maður naumast sínum eigin augum, þegar maður sjer, að hann telur það þó æskilegt, að sunnudagsskólar kæmust upp.

Að telja sjer og öðrum trú um, að bezt sje að halda öllu í gamla horfinu, hefur nógu lengi verið gjört, og oss er það hryggðarefni, að jafnmerkur prestur og síra Þórarinn er, skuli fylla þann flokk. Að segja ungum mönnum á Íslandi að þakka guði fyrir, að þeir sjeu þó ekki eins illa staddir og sumir ungir menn erlendis, er að kenna þeim þann hugsunarhátt, er frelsarinn varaði við, þegar hann benti á faríseann í musterinu. Hví að viðhafa ætíð hið ljelegasta í öðrum löndum sem mælisnúru? Hví ekki einmitt að bregða upp hinu bezta, sem maður þar þekkir, til upphvatningar og fyrirmyndar? Það er slæmt þegar vandað er um við einhvern einstakling og hann afsakar sig með því, að hann sje ekki lakari en ýmsir aðrir. Það er jafnslæmt, þegar af einhverjum er vandað um við mannfjelögin, hvort sem þau eru nú heldur stór eða smá, og farið er af öðrum að hugga þau með því, að ástandið sje jafnslæmt annars staðar. Eins og það sje nokkur minnsta afsökun! Eins og þörfin til yfirbótar sje ekki jafn-brýn fyrir því!

Þeir, sem leggja vilja fram lið sitt til þess meira andlegt líf og fjör færist í kirkju fósturjarðar vorrar, mega búast við, að svona verði tekið í strenginn af mörgum. En þeim mun djarflegri mega þeir þá til með að láta fram-

göngu sína verða. Einbeittur vilji,— trú, sem ekki er hálf, heldur heil, — stöðug bæn, það sjeu vopn hinnar nýju kirkjulegu hreyfingar. Með þeim ber hún sigur úr býtum á sínum tíma.

---

## *FYRIRLESTRAR.*

Til þess að sýna, að ekki sjeu fyrirlestrar allstaðar í heiminum í jafn-litlum metum og hjá prestunum í Kjalarnesþingi, viljum vjer nefna nokkur dæmi. Á Englandi er fjelag eitt, er nefnist, „hið kristilega röksemda fjelag“ (*Christian Evidence Society*). Biskupinn í Lundúnaborg stofnaði fjelag þetta árið 1870 ásamt mörgum öðrum helztu forvígismönnum kirkjunnar á Englandi. Þeir, sem í það fjelag gengu, hafa eflaust heyrt vantrúarinnar getið og sjálfir orðið hennar varir og heyrt til hennar. Því þeir álitu nauðsynlegt að gjöra eitthvað sjerstakt, til að stöðva hina vaxandi vantrú meðal æðri og lægri. Árið sem leið ljet fjelag þetta flytja 1038 fyrirlestra, er allir hjeldu uppi vörn og sókn af hendi trúarinnar. 548 af fyrirlestrum þessum voru fluttir undir berum himni. I fjelagi þessu eru margir lærðustu menn landsins.

*John Bampton* hjet merkur guðfræðingur og prestur á Englandi, er uppi var fyrra hlut 18. aldar. Hann var auðugur maður. En áður en hann dó, mælti hann svo fyrir, að eptir sinn dag yrði stofnaður sjóður af öllum eignum sínum og vöxtunum af því fje varið til að fá hæfustu guðfræðinga landsins, til að flytja árlega átta fyrirlestra við háskólann í Oxford, „kristilegri trú til eflingar og stuðnings og til að hrekja alla vantrú og villu“. Síðan árið 1780 hafa fyrirlestrar þessir verið haldnir og mynda stórt og mjög merkilegt bókasafn út af fyrir sig.

Hið sama gjörði vísindamaðurinn *Boyle* (d. 1691), og presturinn *John Hulse* (d. 1790).

Hjer með auglýsist almenningi í söfnuðum hins ev. lúterska kirkjufjelags Íslendinga í Vesturheimi, að áttunda ársþing fjelagsins, sem samkvæmt ályktun síðasta kirkjuþings á að halda að Garðar í Norður Dakota, verður, ef guð lofar, sett í kirkju Garðar-safnaðar föstudaginn 24. júní næstkomanda, kl. 11 fyrir hádegi.

Winnipeg, í Apríl 1882.

*Fr. J. Bergmann*
í sjúkdómsforföllum forseta.

---

## Gjafir til skólans.

Bjarni Benediktsson, Mountain $2; Sveinn Sölvason, s. st. $1; Jónas Brynjólfsson, Eyford $2; Ónefnd kona, Mountain $1. Safnað af kirkjuþingsmanni Jóhanni Briem í Bræðrasöfnuði við Íslendingafljót: Stefán Þórarinsson, $2; Jónas Jónasson $1; Þorgr. Jónsson $1; Sigfús Pjetursson $1; Jóhann Briem $1. — Octavia Sigrún Leifur, Glasston, N. D. $5. — Gjöf frá kvennfjelaginu við Islendingafljót. $20.

---

Borgað fyrir Sam. hafa: 1. til 4. árg: Mrs. Wm. McCarthy, Rat Portage $1; E. Kjernested, $2, B. Jónsson, $4, báðír á Gimli; H. Hjaltason, M. Thorvarðarson $2 hver, St. Oliver $5, allir í Winnipeg; D. Guðmundsson, H. Sigurbjörnsson $1 hver, Th. Thorfinnsson $2, allir á Mountain; Th. Johnson, Glaston, A. Eiríksson, Icel. R. $1 hvor; G. Jónsson, Hnausa, S. Friðfinnsson, Geysi $2 hver. — 5. árg.: A. Guðmundsson, Aðalbj. Guðmundsson, Sig. Guðmundsson, allir í Grafton; M. Benjamínsson, Gardar; Hjörtur Jónsson, Hallson; E. Jónsson, H. Hjaltason, M. Thorvarðarson, allir í Winnipeg; Mrs. McCarthy, Rat Portage; S. J. Reykjalín, S. Reykjalín, báðir að Churchbr.; E, Kjernested. B. Jónsson, báðir á Gimli; J. Stefánsson, Th. Thorfinnsson, Fr. Fr. Björnsson, allir á Mountain; Th. Jónsson, Glaston; G. Jónsson, Hnausa; Th. Jónasson Icel. R., $1 hver; St. Oliver, Winnipeg $2; — 6. árg.: G. Jónsson, Th. Grimsson, bæði í Pembina; Tr. Kristjánsson, E. H, Fanndal, báðir í Grafton; B. Gíslason, Akra; J. Hallgrímsson, Vakurstöðum; Th. Guðmundsd., Arnes 50 cts. hvert; J. Eymundsson, Pembina; A. Guðmundsson, Aðalbj. Guðmundsson báðir í Grafton; A. Laxdal, L. Goodmansson, Th. Thorfinnsson, öll á Mountain; S. Sumarliðason, Milton; G. Jónasson, M. Benjamínsson, K. Björnsson, J. Thordarson, allir á Garðar; H. Níelsson, Akra; E. G. Sveinsson, Á. Jónsson, B. Jónasson, H. Jónsson, J. Hörgdal, B. Sveinsson, N. Jónsson, allir á Hallson; Sv. Jónsson, Eyford; D. J. Laxdal, Cavalier; K. Jónsson, K. Árnason, báðir á Grund; J. Jóhannsson, Seattle, E. Jónsson, H. Hjaltason, J. Jónsson, J. Blöndal, G. Tómasson, M. Thorvardarson, G. J. Sigurðsson, Mrs. Fr. Morris, S. Hermannsson, G. Jónsson, *V.* Vigfúsdóttir, J. Eyjólfsdóttir, öll í Winnipeg; Mrs. Wm. McCarthy, Rat Portage; Kl. Jónasson, S. J. Reykjalín, S. Reykjalín, allir í Churchbridge; J. Sigurðsson, Victoria; E. Kjernested, B. Jónsson, H. Brynjólfsson, allir á Gimli; A. Guðmundsen, J. Gíslason, O. Helgason, St. Gunnlaugsson, allir Wash. Harbour; S. Björnsdóttir, Brú; G. Jónsson, Hnausa; J. Straumfjörð, Hekla — $ 1.00 hvert; St. Oliver, Winnipeg $ 2,00. — 7.

árg.: G. Jónsson, Th. Grímsson, Pembina; J. Hallgrímsson, Vakursstöðum 50 cts. hvert; S. Jónsson, Garðar; J. Kr. Jónasson, Akra; A. Jónsson, Hallson; S. Christie, Glenboro; J. Brynjólfsson, Eyford; S. Björnsdóttir, Brú; Th. J. Thorvaldson, G. Goodman, *M.* Jónsson, S. J. Jóhannesson, I. Sigurðardóttir, G. Sigurðardóttir, E. Sigurðardóttir, Mrs. Fr. Morris, J. Hallgrímsdóttir, öll í Winnipeg; H. Ásgrímsson, Mountain — $1,00 hvert; B. Jónsdóttir, Winnipeg; Mrs. G. O. Thomsen, Carberry $2,00 hvor.

LEIÐRJETTING. Í kvittunarlistanum í janúar-númerinu stendur: O- Johnson, Glasston, á að vera: O. J. Melsted, Garðar.

---

Í síðasta nr. „Sam." kemur fyrir prentvilla ein í nokkrum eintökum. Á bls. 4, 13. l. a. o. stendur a n d l á t, — á auðvitað að vera a n d l i t. Þetta eru menn góðfuslega beðnir að leiðrjetta.

---

Þetta nr. „Sam," er redígerað af Friðrik J. Bergmann.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; annar ársfjórðungr 1892.

10. lexía, sd. 5. júní: Eldofninn (Dan. 3, 13—25).
11. lexía, sd. 12. júní: Ljónagröfin (Dan. 6, 16—28).
12. lexía, sd. 19. júní: Konungsdæmi Messíasar (Sálm. 72, 1—19).
13. lexía, sd. 26. júní: Yfirlit.

---

Kaupendr „Sam." í Minnesota gjöri svo vel, að greiða borgun fyrir blaðið til séra S t e i n g r í m s Þ o r l á k s s o n a r í Minneota, sem góðfúslega hefir lofað að veita henni móttöku.

Fr. J. Bergmann.

Eins biðr séra Hafsteinn Pétrsson „Sam." að geta þess, að Mr. B j ö r n S k a g f j ö r ð hafi tekið að sér alla fjárheimtu í Þingvallanýlendu.

Fjárheimtu fyrir „Sam." hefir séra Fr. J. Bergmann í Dakota, Páll S. Bardal í Winnipeg og Selkirk, séra Hafsteinn Pétrsson í Argyle-nýlendu og Jóhann Briem í Nýja Íslandi. — Annars sé peningar til „Sam." sendir *M.& W. H. Paulson*, 162 11th Str. N., Winnipeg.

Á Íslandi borgi allir útsölumenn „Sam." til bóksala Sigurðar Kristjánssonar í Reykjavík.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, Sigurðr Kristofersson, H. Hermann, Jóh. Briem

---

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.